Björn þorgrimsson.

# Æfi
# sira Bjanar Halldórssonar.

1799.

# Æfi
# Sira Biarnar Haldorssonar,

sem var

Profastr i Bardastrandar Syslu

og

Prestr, fyrst ad Saudlauksdali og Saurbæ
á Raudasandi, enn sidan ad Setbergi
vid Grundarfiord i Snæfellsness
syslu.

---

Samantekin

af

Profasti Sira B. Þorgrimssyni

og

ad forlagi eckiunnar prentud
i Kaupmannahøfn

af

J. R. Thiele.

---

1799.

Madrinn af konu fæddr hefir fáa lifdaga og ángist nóga: lika sem blomstr upprennr hann og visnar: hann flyr som skuggi, og heldr aldreigi kyrru fyrir.   Job. 14, 1. 2.

Biorn Haldorsson er barnfæddr á Vogsósum i Selvogi sudur, fimta dag Decembers mánadar, árid 1724 frá hingadburdi vors Herra. Foreldrar hanns voro sá gudhræddi og gódfrægi Kiennimadr Sira Haldor Einarsson og Mad. Sigridr Jonsdóttir, og hia þeim uppólz hann i barnæsku. Vetur hinn sama er Biorn kom til, feck fadir hanns Veitingar bref fyrir Stadi i Steingrimsfirdi, eptir Sr. Jón Arnason, sidan Biskup i Skálholts stipti. Þar lifdi hann ei lengur enn til ársins 1738. Hafdi þá sonr hanns Biorn þann grundvoll lagt i barnfrædum og boknámi, undir kiennslu fodur sins, ad han

hausti sidar á 15 aldurs ári geck i Skálholts skóla og helt þarvid i 6 vetur samfleytt. Hann kom fyrst undir lærdoms leidsogn Heyrarans Gudlaugs Þorgeyrssonar, er sídan vard Prestr til Garda á Alptanesi og Profastr i Kialarneß-þingi. Því næst kendi hónum Einar Jonsson, sídan Skólameistari: enn loksins var hann utskrifadr af þá verandi Skolans yfirmanni Gísla Magnussyni, seinnameir Presti á Stadastad og sídast Biskupi Hóla stiptis. Um skólagangs timan hafdi Biorn sumar-vist hiá modur sinni, fyrst á Geirmundarstodum i Selárdal og Stadar kirkiusókn, en sídan ad Saudafelli i Dolum. Um vorid 1745 lauk hann sinum skóla idkunum, med besta vitnisburdi skolans yferbodara; bædi um rádvandt framferdi, ástundan og gódar náms gáfur: þá hafdi hann einn um tvitugt og var en næstu mißeri ad Saudafelli med módur sinni.

Vorinu eptir 1746 tók hann þienustu hiá Syßlumanni i Bardastrandar syslu, Olafi heitnum Arnasyni i Haga, og

dvaldiz þar á vist hálfst fiorda ár, med godu yfirlæti og ordstir, þartil Prestrinn Sr. Þorvardr Magnusson i Saudlauksdali kalladi hann til Capellans, istad Sr. Eggerts Ormssonar, sem fengid hafdi veitingar bref fyrir Selárdals prestakalli. Fór þá Biorn til Skálholts austr, og tók prestsvigslu af Biskupinum sál. Olafi Gislasyni. Enn med þvi Sr. Eggert var i þann tima búsitiandi i Saurbæ á Raudasandi, og Sr. Biorn einhleypr, somdu þeir þad med ser prestarnir, ad Sr. Eggert skyldi þennan næsta vetur þióna, sem fyr verid hafdi, i Saudlauksdals- og Saurbæar, enn Sr. Biorn i Selárdals og Laugardals sóknum. Þégar voradi 1750 fór Sr. Biorn ad Saurbæ á Raudasandi, og var þau misseri til vistar med bónda nockrum Gunnlaugi Gislasyni, enn i fardögum 1751, þá hann hafdi sio um tvitugt, reisti hann fyrst litid bu sama stadar. Ari sidar andadiz ádr nefndr Sóknarprestr Sr. Þorvardr, var þá Sr. Birni veitt Saudlauksdals kall, og flutti hann bú sitt

um vorid 1753, og settiz ad Saudlauksdal, sem þá var litt setin kalladr, bædi hvad kirkiu og stadarhúsa byggingu áhrærdi. Frá þeßum tima breittuz ecki hagir hans, so i frásogn megi færa, fyrrenn árid 1756, þá hann á þritugasta og odru aldurs ári geck ad eiga Rannveigu dóttur þeß gáfurika og nafnkunna Olafs bonda Gunnlaugs sonar og Ragnhildar Sigurdar dóttur, sem bióu i Svefneyum á Breidafirdi. Brædur Rannveigar, vorn þeir Eggert og Magnus, hver eptir annan løgmenn sunnan og austan, og tveir adrir, sem bádir studerudu i Kaupmannahøfn, enn komo ecki til æmbætta. Þá Sr. Biørn qvongadiz, rédz þad af, ad tengdafedgin hans, bædi til aldurs hnigin, brugdu bui og ásamt dóttur sinni Ranveigu flúttuz á vist til mágs sins i Saudlauksdal. Þad var um somu mundir ad Biskupinn sál. Dr. Finnr Jonsson skipade sonum Profastsdæmi i Bardastrandar sýßlu. Þa so var komid høgum Sr. Biarnar, tóku fyrir alvøru i liós ad leidaz hanns lærdóms verk og idkánir, er sti-

dar ſkal nefna, jafnframt dugnadi og kænſku vid búſýſlan og aldingardsyrkiu, hvad ſidaſt talid hann ſiálfkrafa ſetti á ſtofn, þá þad var hingadtil litt i veniu leidt her á landi, allraſidſt á Veſtfiordum. Má þar af marka þeß ſáluga manns hugarſtyrk, atfylgi og ordugleika, med rettu áliti ſannra gagnsmuna, er hann þá orbyrgr, bædi ad efnum og vinaſtod, brautz á móti inngrónum alþydu fordómi, med at hagnyta til mannfædis margskonar maturtir, ad loflegu dæmi annara þióda, ſem herlands menn allvidaſt þektu eigi, ne báru ſkynbragd á, ad undanførnu; enda vardi hann og til þeß bædi eigin ervidis ſveita og toluverdum koſtnadi. J þeßu manndóms fyrirtæki ſtyrktiz hann einnig og upporfadiz af alþiódlegri ſkipan vors þá ríkiandi náduga Konúngs Frideriks 5ta, gardahledſlu og jardar rækt vidvikiandi, er hingad kom i landit um ſumarid 1754. Þeßa konunglega bods uppfyllingu lagdi ſál. Profaſtrin ſtund á, fleſtum fremur, hafandi, auk embættis þiónuſtu og lærdoms idkana, er hann aldrei let hiálida, alt i ſenn

fyrir stafni, endurbygging kyrkiu og stadar-
húsa, med jurta- og tún-garda hledslu; hveriu
öllu hann framfylgdi med slíkum dugnadi og
framqvæmd, ad a átta ára fresti frá qvongan
hanns, og byriun þeßa starfa, var kyrkian og
stadrinn i Saudlauksdal albygt frá grund-
velli, og þad so prydilega, ad ecki þótti i
Bardastrandar sýslu, og þo vidar væri leitad,
jafnfridt og sæmilegt prestsetur. A somu
mißerum voru og albúnir þrir jurtagardar,
er þá stódu i bestu rækt og blóma, sá eini ad
lengd 16 fadmar, og 5 fadmar frekir á breidd.,
annar 9 fadma lángr og 7 fadma breidr: hinn
þridie var 16 álna i hvert horn af fiórum;
og i þeßum midium stód lystihus eitt, hid fyr-
sta, ad eg ætla, þeß kyns, er bygt hefir verid á
Islandi: var þad, eins og siálfr aldingard-
rin, uppbygt i óskokku ferhyrnings formi
og þakid yfir af timbri, alla vega jafnt upp-
dregid i topp, og efst knappr áttkantadr.
Ad hlidum húßins var i stadin laufvidar
plantadr mustardr, og voxtr hanns so aukin
ad vel gnæfdi yfir nedstu umfor a þakinu.
Þad næsta idnar efni gaf toduvollrin, eitt-

hvert hid verulegasta og beinasta biargrædis medal á hverri bújordu, er ei heldr, enn hvad annad Saudlauksdali vidvikiandi, saknadi sinnar umbótar, og þad þvísídur sem framar var naudsyn til, sokum yfirvofandi brádrar; eydileggingar, af sandfoki og uppblæstri árlegum, á austnordur siduna. Til þeßa fyrirtækis feck Profastrin þá yfirvaldsins tilhlutan, ad sóknarmenn skyldu honum okeypis styrk veita ad umgirda þad af túninu sem vissi til austnordurs, ad so hemiaz kynni ad minsta kosti uppblástrin. Þeß ad auki setti hann siálfr, med siálfs sins heimilis fólki og adkeyptum daglauna mönnum, fulla 200 fadma gards umhverfis túnid, so þad fengi fulla umgirdingu, sem i ødru tilliti naudsyn krafdi. Til umbótar bædi þeim skada sem heima stadartúnid tekid hafdi af sandgánginum, og lika til uppreistar þeim kostnadi er hann hafa hlaut fyrir túngirdingunni, var honum rádit og lika leyft af landsins yfirvoldum, at fella mætti af hiáleigu eina, stadnum tilheyrandi, Dalshús kallada: enn þetta leyfi færdi hann ser ei i nyt, er honum

virdtiz þad óráðlegt: var hans þánki so fiar-lægr hkbyla afnámi, ad hann i þeß stad bygdi á eigin kostnad hiáleigu adra, er hann kalla-di Leysa, á þeim hluta túnsins er mest horfdi vid sandfoki og uppblæstri. Taldi hann þad bót bújardar sinnar ad leggia undir nybyli þetta kyrfódur fult, af heimajardar túni og annad jafn mikid fódur utan túns, til þeß ad nybylingrin þvi betur ræktad gæti þad af vel-linum er fiærst lá bænum, og árlega umbætt þad er mest lá vid uppblæstri og skemdum. Till allra ádrtalinna stadar- og jardarbóta lagdi Profastrinn framm-skurdi og veitingar margra smá linda, sem fyrir vatsaga og kul-da-sakir hnektu todu vextinum. Flestalla þeßa framskurdi leiddi hann i læk þann er sidan fell gegnum girdingu þá, sem gørd var umhverfis bæarhúsin, á þá leid, ad á husa-baki, þar sem túnbali nockur lá so hátt alt ad húsum fram, ad hann hartnær samsvara-di innstu bæar veggium, þar var þráð-beinn og breidr gángr grafin jafn lágr husa grund-velli, og sidan med snidtorfi upphladinna þá siduna sem ad húsum horfdi. Enn til sudur-

og norduráttar var girdingin gior á jafnslettu, samsvarandi ytstu veggium utanbæarhúsa, sem oll stódu i rod beggia vega út frá bæar dyrum. I giegnum austnordr hluta girdingar þeßarar var nu fyrnefndr lækr leiddr, og só umbúid, ad honum mátti á sumrum hleypa, eptir vild, bædi á viß pláß i túninu, sem i þerrum var hættaz vid afbruna, og lika i þann stærsta urtagardin, ef sierlegrar vokvunar vidþurfti. Giordar voru og i adal-læk þessum nockrar afmarkadar stiflur, sumar ætladar til þvotta, sumar til ad sækia i neytslu vatn, og enn adrar til ad geima i lifandi silúnga, bædi til matreidu, ef menn vildu fliótlega tilgripa, og lika þeß ámilli til skemtunar. Giort var og hús eitt yfir þennan sama læk, þar sem hann fell næst peninga húsum, til brynningar fenadi um vetr. Þetta flest alt sem nú hefir stuttlega talid verid um fyrnefndra átta ára búsyslan og byggingar starfa Profastsins sál. þad er adur greinlega skrád á danskú tungu, i bæklingi þeim sem árid 1765 útgeck á prent i Kmhofn. med þessari forsögn: Korte

Betragtninger om nogle Forsøg til Landvæsenets, og især til Havedyrkningens Forbedring i Island, begyndte paa en Præstegaard paa Vesterlandet. Nú mega allir nærri geta, sem nockra grein kunna á óþreyttri starfsemi Profasts Sr. Biarnar, ad eigi muni hann vid þeßa byriun starfa sinna so búid standa látid, eda med ollu uppgefiz: þad fór og fiærri mieg, þvi alla þá 30 ára tid sem hann sat ad Saudlauksdal, gordi hann ymist, ad umbæta eda fremur ad pryda og útauka med storum kostnadi og ervidismunum þær i ondverdu byriudu byggingar og gardahledslur á bújordu sinni. Þar med má telia þann stærsta urtagard, i óskocku ferhyrnings formi, og lika trod þá hann let grafa beint ofan ad vatninu, gegnum allan jardveg túnsins nidr i fasta mol, vidast hvar meir en 4 álna diúpt. Trod þeßi var 5 fadma breid, og ad víßu 100 fadma long, beggia vegna upphladin med snid torfi innan til, og upp af gardlag bádum meigin. Var þetta sá eini alfara vegr, sem um daga Sr. Biarnar lá til bæar i Saudlauksd.; enn toduvollrin þar

med fridadr frá øllum hesta- og gripa-rekstar trodningi.

Nú skal um sinnsakir her frá hverfa og geta nockud þeirra sierlegustu hluta, er þeßum sæla manni jukn gledi og sanna virdingu bædi innanlands og utan hiá framandi þiódum. Þad fyrsta var, ad eptir lidin þriú mißeri frá qvongan hanns, fæddiz honum sónr, er Haldor var heitinn eptir fødur-fødur sinum, mannvænlegt og skynugt barn; enn þvi var ei lengur lifs audit enn hálft þridia ár: feck þad ad likendum mikillar sorgar bádum fedginum barnsins, ad siá so brádum á bak efnilegum einka syni. Þá þetta bar ad hendi, var á vistum i Saudlaugsdal mágr Profastsins og brodir konu hanns, sá lærdi viceløgm. Eggert sal. Olafsson, sem med sinni umgengni og fortølum sefadi miog sorg þeirra hiónanna: þvi Eggert var bædi enn fiølvitrasti madr og gladlyndr hversdaglega, sem Profastrin siálfr sannar, er skrifad hefir æfisøgu hans: einneg voro kærleikar miklir og ástsemi med þeim mágum og systkinum.

Í þennan tíma giordiz so hliódbær gard-yrkia, aldin-rækt og onnur búnadar storf i Saudlauksdal, med þaraf fliótandi gagni og góda, ad margir tóku ad feta i fótspor þeß sæla manns, bædi innan heradsmenn og fleiri landar vorir; og þar kom ad fregnir af þvi flugu til annara landa, og báruz lokfins fyrir vorn ágæta Konung Frid. 5ta. sællrar minningar, sem þegar vottadi sina mildu velþocknan á slikri frá oß sinald-spurdri ástundan og dugnadi; er hann um sumarid 1765 sendi Profastinum, ad eg ætla, fyrstum allra Islendinga, meniagrip nádar sinnar: þad var silfur-medallia ein, med yfirskrift pro meritis (ad verdugleikum), sem monnum þótti vel tilunnid; enda qvádu þá nockir i þeßa minningu lucku-óskir og lofqvædi, sumir á islendska sumir á latinska túngu. Premur árum seinna enn þetta skedi, eda árid 1770, var hann af landbúßtiórnar felaginu i Kaupmhofn kiorin til ad vera einn af þeß correspånderandi medlimum, sem þvi sidur má þykia undarlegt, ad þá var bædi utan- og innanlands alkunna ordin lærdomr

hans og manndóms adburdir, er birtuz enn framar i merkilegúm ritagiordum, hússtiórn og búskap vidvikiandi, er þá voru sum á prent útgengin, og sidan skal framar um tala. Nú man eg þess geta, med hverium atvikum sá sæli madr fluttiz frá Saudlauksdal ad Setbergi. Þegar hann var hálf sextugr ad aldri og tekinn miög ad lyaz af embættis ónædi og búskapar störfum: hafdi og i heil átta ár hins þridia tugar þiónad Saudlaugsdals og Saurbæar þingum, er margir telia med þeim ördugustu á landinu; kom þá honum i hug ad sækia um eitt hvad hægra braud, hvar hann i makendum mætti nióta elli-ára, ef Gud vildi, og þvi heldur án hindrunar, gefa sig vid bókfrædi og rita smídum. I þessu áformi beiddiz hann af vorum mildasta Konungi Chr. 7. árid 1779 ad ser mætti veitaz expectance fyrir Setbergs prestakalli i Snæfellsness sýslu, ad lidnum profastinum Sr. Vigfusi Erlendssyni, sem þá var enn á lifi og helt þenna stad. Ad þessari beidni studdi kroptuglega Biskupinn sál. Dr. Finnr Jonssonni med erklæringu sin,

uppá bónar brefid til Kóngsins, hvar hánn segir: at Supplikanten er een af de fornemste og værdigste Præster i Skalholts Stift, baade i Lærdom og Levnet aldeles ustraffelig, og derfor af alle Vedkommende elsket og æret. Vard sá og ávoxtrin heraf, ad árid 1781 þegar Sr. Vigfús andadiz, feck Profastrinn veitingar bref fyrir Setbergi, af þá verandi Stiftamtmanni L. A. Thodal, og seinna meir stadfestingu þar uppá af Konúnginum; so ad um sumarid 1782 fluttiz hann alfarin, med konu sinni og mest öllum varnadi, stáleidis inn á Grundarfiord, og settiz ad Setbergi. Her fann hann þá ærit skipt um hibyli, jardar rækt og annad fleira frá þvi er verid hafde i Saudlauksdal; so varla þótti vidsæmandi: lagdi hann þá strax hid fyrsta haust hönd á stadarins endurbót; tók ad velli allan fiordung bæarhúsa og braut jörd til jurtagards, sem ádr hafdi einginn á stadnum verid. Hin næstfylgiandi þriú ár hafdi hann af velli uppbygt öll stadarins ibúdar hús og nockur hinna er utanbæar voru: um fram þetta

lagdi hann nytt þak á kirkiuna og bætti vidahvar um leid hennar máttar vidi. Um sumarid 1785 tók hann med hægd ad kenna nockurra innvortis veikenda, er fóru þvi meir vaxandi sem hausta tók; fylgdi þar med sióndepra so ódum, ad um vetur nátta skeid var hann varla bók-skygn, utan litla stund ad morgni dags: nockru seinna jukuz so þeßi invortis meinlæti, ad han mátti ei lengur úr reckio risa; og þegar ad jólum leid þótti hann banvænn: enn um siálfa hátidina sneriz sóttar far hanns til batnadar, so uppþad an tók hann smám saman ad rettaz vid, enn siónin var þá algiorlega tynd. Um Páska leitid tók hann þad ráds, ad gefa upp braudid vid tengda náunga sinn Sr. Biorn Þorgrimsson, þa verandi Profast i Borgarfiardar syslu, og Prest ad Saurbæ á Hvalfiardar strond, med þeim skildaga, ad hann heldi siálfr þridiúngi heimastadar, ser til ábylis, enn hálfum inntektum og ágoda ollum, medan lif endtiz. Ad þeßum kostum geck þá þegar Sr. Biorn yngri, og

feck þan 25da Aprilis 1786 veitingar bref fyrir Setbergi: enn 8 Augusti sama árs afhendti Sr. Biorn eldri kirkiú og stad med ollu tilheyrandi nafna sínum, sem gaf vid þvi skiallega qvittantzin. Sumarid eptir 1787, þá hann hafdi þriá um sextugt, kom honum þad i hug, ad sigla fram og sækia útlendska læknara ad rádum vid sionleysi sínu; og þad vard af, ad hann þetta sumar ed sama tók ser far til Kaupmh. med Skipherra, er Tagholm var vidurnefndr, og geck umbord þan 25 Septembris á hukkertunni Bessestæd kalladri, er samdægris leysti úr hofnum á Grundarfyrdi, let i haf og vard vel reidfara. I Kaupmhofn dvaldiz hann vetrar lángt, og þoldi ærnar reynslur af ymsum læknurum, enn oll þeirra vidleitni kom þo fyrir ecki. Þeß vileg geta, er kalla má merkilegt, ad sidan Profastrin sál. misti siónina, opnuduz þrisvar augu hanns, og lukuz strax aptr. Þétta bar fyrsta sinni vid her heima, ádr enn hann sigldi; er hann eitt sinn sofnadi i rockri, og kona hanns Mad. Rannveig kom inn med liós, settiz hann upp

siáandi, og leit hana snøggvast, enn sidan var alt myrkt fyrir honum, sem ádur. Vid likt vildi til i Khøfn; eitthvert qvøld er mágr hanns J. Olafsson sat hiá honum, og lysti eptir nockru sem fell á Gólfid, ad siónimi brá á augu þess blinda mans, undir eins og liósid kom upp á bordid, so alt var honum klárt og synilegt, enn eigi lengur enn nockur augnablik. J þridia sinni, og so utanlands, vaknadi hann af svefni einnhvern morgun þá hálflióst var, so skarpskygn, ad hann sá gluggana, alt svefn-herbergid innan og þess húsbúnad; enn strax ad brádu bragdi var hann blindr jafnt sem fyrr. Þó nú þetta syniz undarlegt, kannaz þo læknar og náttúru spekingar vid þad, og vita fleir i dæmi til þesskonar, sem her þarf ei ad greina. Vorid 1788 sneri Sr. Biørn aptr til Íslands, og er hann var ferd búinn, feck hann af konunglegri mildi 60 rikisdala árlega pension, hverrar hann naut alt til dauda dægurs. Þá Profastr var heimkominn, syndi hann med þvi sinn gofugleika og gódgirni vid

frænda sinn Sr. B. yngra, ad hann óqvaddr skipti med honum til jafndadar þeßum peningum, og hafdi þó á fóstri eitthvert barna hanns, sem þaug hiónin töldu eigi til skuldar.

Uppfrá þeßu var ecki sierlegt ne sagna verdt til, viðvikiandi þeß sæla manns framferdi og æfi, sem nu hefir umhrid talin verid.

Enn er hann á siónlausum elli-árum ecki feck adhafz, var þó hanns lærdóms lyst og elska so stór, ad hann hversdaglega optast nær let um vißan tíma dags fyrir ser lesa ymiskomar lærdoms bækur: giørdi þad tidast Studiosus Olafr Einarson; eins þá tid hann var á vist med yngra Profastinum. Annars var enn sálugi madr þaug seinustu 6 ár sinnar hiervistar alloptast qvellingalaus, med jafnri heilsu og smáþverrandi likams burdum, til þeß hann þridia dag viku eptir hofud dag um sumarid 1794 tók seinasta siúkleik sinn og banasótt. Þennan dag var vedur blidt og skein sól i heidi: unnm ondverdt dagmála bil klæddiz hann med veniu heilbrigdi og kendi ecki sóttar so menn varir yrdu: enn er ad hádegi leid, greip hann

ſnegglega ſkiálfti mikill, med ákofum ſveita útſlætti, ſo hann mátti eigi á ferli vera; þó klæddiz hann aptr ad qvøldi dags um ſtund, og eins á midviku- og fimtu-dagin; enn ſkiálftinn og ſvita útſláttrinn var vid þad ſama, hvar med fylgdi ſmávaxandi vanmáttr. Foſtudags morgunin helt hann enn háttſemi ſinni med fótaferdina, þo næſta máttfarinn, enn øngra verkia qvadz hann kenna: let hann þá raka ſkegg ſitt og búa hvílu ſina, þar ſem hægra var til þiónuſtu, ef ſiúkdomrinn kynni til lengdar ad viðvara. Medan á þeßu ſtód, toluduz þeir nafnar vid, eitt og annad lærdoms efnum vidvíkiandi, og kom þar nidur rædan, hvert naudſyn bæri til, ad chriſtin madr tæki nockur hátta ſkipti, þó hann viſſi ſkamt vera eptir ólifad æfi ſinnar: urdu þeir á þad ſammála, ad fyrir utan rádſtøfun húß ſins, lægi þad eina til, jafnt ſem ádr, ad ſtunda ena ſømu chriſtindóms idn til lífslokа: mátti þad þá ſkilia, ad hinn ſiúka grunadi rikt um nálægd afgángs ſinns. Littu eptir þetta tal afklæddiz Sr. Biørn ſál. i ſidaſta ſinni, og laugar morgunin enn næſta

qvoddu; þeir nafnar algiørlega, sem ecki mynd-
du þeir þeßa heims aptr hittaz lifandi: þvi
Sr. Biørn þ. s. fór þá ad embættis eren-
dum sudur i Breidavikur sóknir, og ecki fyrr
von heimkomu hanns, enn sidla á mánude-
gi. Þeßi grunr vard ad sannendum; þvi um
sólarfalls skeid á sunnu dags qvøld hid 10da
eptir Trinitatis, sem þá bar uppa 24da Au-
gusti, lez enn sæli madr, og ødladiz þad hlut-
skipti, er hann innilega hafdi eptir þrád; ad
leysaz hedan og vera med Christo: skedi þad
med hægasta andláti, ad óskertu máli og rænu
til seinasta andar-taks. Þá hafdi hann alls
her i heimi lifad 69 ár 9 mánudi og 11 da-
ga; i hionabandi full 38 ár; þiónad Pró-
fasts embætti 26 ár; enn Prests embætti
37 ár. Fimta dag viku næstan eptir giørdi
eckian, mad. Rannveig, hanns veglega út-
før og let nidursetia i fram-kirkiu á Setbergi,
vél 8 fóta innar frá aur-slá, enn fullra 6
fóta frá hlidar fótstykkium ad nordan ver-
du. So er nu lidin æfi þeß sæla manns á
þann hátt sem her ad framan hefir sagt ve-
rid, þo eingan vegin so gløgglega, ad ókunnir

menn fái ad fullu þar af sed hver og hvilikr ágætis madr hann var. Her vil eg nu fáeinu vidauka um hanns likhams voxt og yfirlit, dagfar og lunderne med odru þar ad hnígandi. Sr. Biorn sál. var med hærri monnum á voxt; herda breidr og mid-miór; eptir vexti hár i seßi: hendur hanns og útlimir voru miklir og allsterklegir; var hann og raunar ramr ad abli, medan hann var á besta skeidi og kroptunum fór eigi ad hnigna. Hann var riettvaxinn og fliótstigr i framgángi, enn fasid alvarlegt. J andliti var hann dimm-leitr, enn skipti þo allglogt litum; ennid medal máta mikid og hamrad; brynnar hærdar i meira lagi; nefid ad hófi stórt, lidlaust og óbogid: augun dauf fyrst ad siá, enn skarpleg og þó stodug ef i tomi var adgád, enn sáz eigi gorla i fliótu bragdi, þvi madrin var alla æfi nærsynn og siónarlagid miklu hvaßara i hálf dimmu, enn i gladri birtu: kinnbeinin lán eigi hátt: munnrin velfarinn, enn hakan nokud framvaxinn. Hár hafdi hann i æsku svart, enn bryr og skegg jarpleitt. J máli var hann lágrómadr og nockud

hrad=mæltr. Allr var skapnadr hanns sóma=
gódr og lytalaus: ókunnum mønnum virdtiz
útlit hanns og yfir=bragd heldur áhyggiu
samlegt. Hvad skaplyndid snertir, var hann
madr stødúglyndr og fastheldinn, fámæltr
heima hversdaglega, þó þægilegr i ávarpi,
ef hann mælti nockud. Hann tók ecki miøg
á óvara yfirsiónum, þó nockr bagi eda tión
væri ad, allra sídst ef drengilega var vidgen=
git og tilsagt, enn skorinordt og einardlega,
med godri stilli, umvandadi hann ef hønum
mislíkadi, og enn sami var háttr hanns um=
hvern hlut, er hann sagdi meiningu sína og
alvarlega var eptirleitad. Ecki heldur var
hann upptaks=samr vid þá menn er hønum
voru kunnir og hann þekti ad frómlyndi og
dugnadi, þo einhver ósnotrleiki eda sídpry=
dis brestr áyrdi: enn yfirlætis og sundrgørda
mønnum þóttu stundum vidqvæmar dæmi=
søgur hanns. Heldur var hann kapplyndr i
framhaldi byriadra fyrirtekta, let sig þó liúf=
lega leida af ástvinum sínum med skynsemd og
þydlyndi; einkanlega ef áform hanns stefndi
á nockud þad er hardrædi þótti. Hann var

afskipta-fár um annara manna hagi, ef eigi snertu embætti hanns: og allra manna fráleitastr ójafnadar-samningum, ef þá bar undir hanns umdæmi og úrskurd; enn samdi giarnan sæmdar og sangirnis sáttir. Hann var manna trúastr um leyndar mál, og øllum rádhollr, jafnvel þó óvildar menn ætti hlut i, ef þeir sóktu hann ad heilrædum; og giordi hann annad hvert, ad synia þeim svars, eda ráda þad eitt, er siálfr myndi hann i þeirra ástandi gort hafa. Vid kaup og sølur var hann sanngiarn og rettsynn, þó reikningsgloggr; lika þótti honum gott ad eiga skipti vid þeß háttar menn; enn fiarlægr var hann øllum sleitum og reglingi. Opt hendti hann gaman af, ad vekia lærdoms þrætur vid bókfrædis-menn, og eins hvad búsyßlu snerti, vid bændur, þvi þo hann þætti fálátr og órædinn vid ókunnuga, var hann enn mannúdlegasti vid þá er hann feldi þocka til: so var hann og hiúum sinum og heima mønnum hugliúfr og ástsæll húsbóndi.

Han var giestrisin vid ríka og óríka; rausnar-madr heim ad sækia, og spardi ná-

lega ecki vid vini sina. Fátækum og aumstöddum tiedi hann sig vorkunlátan nærgætin og hugulan. Mørgum vandalausum ungmennum gaf hann uppeldi, undirvisan og leidsögn i hvervetna gódu, til þeß þaug þroskuduz og voro siálfbyrg. Vidgiordir hanns og góðvilie vid ørvasa módur, tengda foreldra, systkyni og mága skna bera liósast vitni um ættrækni hanns og ørlæti. Af þeim frænd-børnum, sem hann fóstradi, kom á legg og til menningar, voru: Jon Gudmundsson, systursonr hanns, efnilegt og mannvænlegt úngmenni, sem 14 vetra gamall fell gegnum is á Dals vatni og druknadi, frændum og fóstr-foreldrum sveinsinns til mikillar sorgar. Annar Jon Gudmundsson yngri, bródir enns fyrra, nu Syßlum. i Vestmanna-eyum. Gunnlaugr Gudbrandsson Briem, lærdi fyrst blómstr-og bilætis skurd i Kaupmhöfn, studeradi sidan løgvisi, og er nu adjungeradr Syßlum. i Eyafiardar Syßlu. Mad. Þora Gudbrandsdóttir, nu egtaqvinna Candidati Olafs Einarssonar, sem ádr er um-

getid; hun var þeim hiónum af fóstrbörnum þeirra einnamest ástfólgin, og bádum þeim mest ad yndi og ellistod. Sr. Biörn sál. var alla æfi sina trúrækinn madr, vandlátr ad Guds þiónustu-giord og helgihaldi. Hversdaglega heima átti hann vanda til, medan hann var vegskygn, árla morguns ad vitia kirkiu, til heimuglegra bænagiorda, enn þeß ad auki tidkadi hann bædi sumar og vetur, qvøld og mørgna opinbert bænahald med heima-fólki sinu. Aldreigi leid hann illsidu nockura óátalda á hiúum eda børnum, og ecki helduz þeir menn til lángframa þar á vist, er eigi vildu til sidbóta skipaz vid hanns umvøndun. I embættis verkum øllum var hann árvakr, reglubúndinn og uppfrædingar rikur: hafdi hvert tveggia, náttúru-gáfur og lánga æfingu ad binda i fám ordum fulla meiningu, so øllum skyldiz vel: en kenningar form hanns var alt ordulegt og systematiskt; þeß vegna hid audveldasta ad nema og hugfesta fyrir hanns tilheyrendur. Profastsdæmid rak hann med røgsemd og dugnadi, sem enn er mønum i

minni. Han var af sál. Biskupi Finni Jonssyni til qvaddr, sinna vegna ad visitera Isafiardar sýslu, og leysti þad so af hendi, ad yfirbodara hanns gatz vel ad þvi, sem odrum hanns embættis sýslunum, og let þad ásannaz, er hann skrifadi undir bónar-brefid til Kongsins, um Setbergs braud, sem her ad framan er sagt.

Fyrir utan gudfrædi og løgspeki, lagdi Sr. Biørn sig eptir ordulegri jurta-kunnáttu (Botanica), sagnafrædum og búnadar visendum; hann idkadi miøg fødurlands fornfrædi. Þegar á únga aldri hafdi hann fengid mørgum fremur gódan grundvøll i gridsku og latinu. Þydska og danska túngu skildi hann og taladi til gódrar hlitar: las svenskar bækur, nockud i frønsku og eingelsku, sem hann numid hafdi af mági sinum Løgmanni Eggerti. Þeßi og ønnur fleiri bókfrædi idkadi hann og hafdi um hønd i kyrdum, þá hann var einnsaman, so alþydu var þad olióst; þvi siálfr hann helt eigi sinum lærdoms idnum á lopt, og fór med, so litid bar á. Eigi heldur giordi hann meira

ord á sinni skáldskapar gáfu, sem honum var þo led, og siá má af merkilegu qvædi fram ann vid hanns Lachanologisku excerpta, kolludu Fiorgynar mál, sem margir i fyrstu eignudu þiódskáldi voru Sr. Gunnari sál. Pálssyni. Hann hefir og ort vid ymiß tækifæri nockra góda sálma og gaman visur, sem enn eru til, og syna honum var su iþrótt lagin. Sr. Biorn sál. let eptir sig, sem fyr er getid, morg nytsamleg rit og lærdomsverk af ymsum efnum: nockur þeirra eru á prent útgenginn og i almennings hondum: onnur hendi skrifúd, sem enn eru til, eigi sidur nytsom og lærdómsrik. Þeßi hvertveggiu eru fylgiandi:

1) Lachanologia eda mat-urtabók, samantekin af excerptis Eggerts sál. Olafssonar, med qvædinu Fiorgynar málum framanvid, sem raunar eru harmatolur eptir þá látinn mág og ástvin hanns fyrnefndan Vicelogmanninn. Prentad i Kaupmhofn af A. Fr. Steini 1774. Formáli bókarinnar er skrifadur af J. Olafssyni.

2) Atli: segir um jardar og qvikfiár rækt og ágóda, i spursmálum og andsvörum, millum yngismanns og Atla gamals bónda. Prentad i Hrappsey 1780.

3) Grasnytiar: um þad gagn hver búandi madr getr haft af ósánum villi-jurtum, sem vaxa i landeign hanns. Prentad i Kaupmhöfn 1783.

4) Æfi Eggerts Olafssonar, Vicelögmans, sunnan og austan á Islandi. Prentad i Hrappsey 1784.

5) Arnbiorg: æruprydd dándisqvinna á Vestfiórdum Islands; afmálar skickun og háttsemi gódrar húsmodur i hússtiórn, barna-uppeldi, og allri innanbæar busyslu. Sál. Profastrin gaf eitthvert sinn vini sinum ad skilia; hann hefdi her velflest dæmi dregid af siálfri konu sinni, sem hann unni mikid og letz eigi mátt fá betri húsfreyu, hvoria qvennkosti sem telia skyldi. Bæklingrinn var sendr Landbústiórnar felaginu, i Khöfn sem óskadi nockru þar i umbreitt, enn þad var um

seinna, er Profastinum var þá siónin horfin, so skrifid hefir eigi hingad til dags þrykt verid.

6) Islendsk Ordbók eda Lexicon, med latinskri útleggingu, er hann safnadi til og hafdi undir høndum i full 15 ár. Þetta sendi hann um haustid 1786. Fornfræda felaginu i Khøfn, og þádi ad launum, eda rettara heidurs giof, 100 rdr.

7) Utskiringar: a) um fiøru-nytiar eda gagn; b) um skógarteiga, eda um þad hvad teigr var kalladr; c) um forbodna lidu; hvad alt synir lærdóm hanns og grannskygni i Løgum.

8) Utleggingar. a) Af Þydsku: Paradisar jurtagardr, eda Joh. Arndts bænabók; b) Amadæi Kreuzbergs hugleidingar á hverium degi árid umkring: þo ad eins þad hálfa af bókinni, frá 1sta Jan. til 1sta Jul. Af Donsku: c) Meades bæklingr, sem hann kallar: Næstum þvi christinn; d) Evangeliskar nádar-reglur, i fiórum samtølum.

Øll skrif sál. Prófastsins eru áudkend af módur-málsins hreinu og obreyttu ord færi, og fyrir þad sama ordlögd framar flestum ødrum ritum á þeßari øld: þá obrrar túngu fornu fegurd og málsnilli fer so miøg aptr.

Sie nu alt þetta samanborid vid þeß sæla manns embættis annir og margføld búnadar størf, má þar af ráda hvilikr idnar og atorku madr hann verid hafi: sem og einninn alt hans lif og framferdi synir, ad hann var gudrækin og rádvandr madr, ættar stod, ástvina inndæli, elskari lærdoms og allra þarfsamlegra visenda: i velgengni hóglatr og varfærinn, i mótgángi gedprúdr þolugr og rádgodr: hann hefir leift ost løndum sinnum fogur og fylgdar-verdug dygda dæmi; enn siálfr hann nytur nu hvildar af løngu ervidi, inngenginn i fognud sinns Herra.

---

Ættar-

# Ettartal
## Sal. Profasts Sr. Biorns Halldórs-sonar.

Fader sal. Profastsins Sr. Biorns var Sr. Halldor á Stad í Steingrims firdi, Einarsson, Þóroddssonar, af gódu og rádvandu almúga fólki. Egtakvinna Einars Þóroddssonar var Gudrun Halldórsdóttir, Gudmundssonar, á Bæ i Borgarfirdi, Gudmundssonar Hallssonar, Olafssonar, Prests i Saurbæ, Kolbeinssonar. Egtakvinna Halls var Cecilia, dóttir Gudmundar Sæmundssonar á Glistødum og Liótunar Sturladóttur, systur Orms Logmanns; var módir hennar Gudlaug dóttir Finnboga Logmanns Jonssonar, Prests á Greniadarstad, Pálssonar, er lengi var í Hyrdstióra stad, Þorvardssonar. Módir Finboga Logmanns var Þorun dóttir Finnboga hins gamla í Asi, í Kelduhverfi, Jonssonar Langs. Enn húsfreya Finnboga Logmanns var Málmfrídr dóttir Torfa Riddara og Hyrdstióra, Arasonar og Akra-kristínar, dóttur Þorsteins Logmanns Olafssonar. Egtakv. Gudmundar Hallsonar var Astrídr Asgeirs dóttir, Prests á Lundi, Hákonarsonar, Syslumans i Þverár þingi, Biorgólfssonar á Fitium, Þorkellssonar Wellings. Egtakv. Gudmundar á

Bæ Gudmundsſonar, var Sigrídr dóttir Sr. Jóns Egelsſonar i Stafholti. Egtak. Halldors Gudmundsſonar var Gudrún Steindórs dóttir, Syſlumanns og Stapa-Umbodshaldara, Finnsſonar á Ökrum, Steindorsſonar. Egtakv. Finns á Ökrum var Steinun Jóns dóttir, Sigurdsſonar frá Búdardal, Oddsſonar, Sigurdsſonar á Hvoli, Geirmundsſonar. Módir Steinunnar var Margret dóttir Eiriks frá Asgardi, Gudmundsſonar, Andresſonar, Gudmundsſonar hins Rika á Reikhólum; hvers ætt seinna verdur talin, enn módir Margretar og kvinna Eiriks Gudmundsſonar var Gudrún Gunnlaugs dóttir, Teitsſonar ens Rika á Biarnanesi. Kvinna Sigurdar Oddsſonar i Búdardal var Steinun Sturla dóttir, ſyſtir Liótunar, hverra ætt ádur er talinn. Egtakv. Steindors Finnsſonar var Gudlaug, dóttir Þórdar Málara Einarsſonar, Preſts á Stadaſtad, launſonar Marteins Biſkups. Egtakv. Sr. Einars Marteinsſonar var Þórun, dóttir Sr. Olafs i Hiardarholti, Gudmundsſonar á Felli i Kollafirdi, Andresſonar, Gudmundsſonar á Reikhólum hins Rika, Araſonar hins Rika, Gudmundsſonar. Egtakv. Gudmundar á Reikhólum var Helga Þorleifs dóttir, Hyrdſtióra, Biornsſonar hins Rika i Vatnsfirdi. Módir Þorleifs enn Egtakv. Biorns i Vatnsfirdi var Olof dóttir Lopts Rika á Modruvollum, Guttormsſonar, Ornólfsſonar. Egtakv. Gudmundar Andresſonar var Jarþrudr Þorleifs dóttir Hyrdſtióra, Biornsſonar Rika, Þorleifsſonar, Arnaſonar, enn Módir Jarþrudar var

Ingvelldr Helgadóttir Løgmans, Ejólfsſo- nar og Akra Kriſtinar Þorſteinsdóttir Løg- mans, Olafzſonar, er fyrr var getid. Egtakv. Sr. Olafs Gudmundsſonar var Ingiríðr Gudmundsdóttir, ſyſtir Dada i Snóks dal.

Módir Próſaſtſins ſal. Sr. Biorns Hall- dorsſonar og Kvinna Sr. Halldors var Si- gridr dóttir Sr. Jons eldra á Gilsbacka, Ejólfs ſonar, Preſts á Lundi, Jonsſonar, Halldorsſo- nar. Egtakvinna ſidſt talins Jons var Hrodny Sigurdar dóttir, ſyſtir Sr. Einars i Eydelum. Egtakv. Sr. Ejólfs á Lundi var Katrin Einars dóttir frá Aſgardi, Teitsſonar, Eiriksſonar, Gudmundsſonar, Andresſonar, hvers ádur er getid. Módir Teits var Gudrún Gunnlaugs dóttir, launſonar Teits Rika, Gunnlaugs ſonar i Biarnaneſi. Enn egtakv. Teits og fødur-módir Katrinar var Katrin, dóttir Peturs Einars- ſonar, bródur Marteins Biſkups i Skálholti, og Ingigerdar Gudmundsdóttur, Finnsſo- nar frá Økrum, Petursſonar, ſyſtur Dada i Snóksdal, og Þorbiargar Beſſa dóttur Einars- ſonar. Kvinna Beſſa og módir Þorbiargar var Sæunn dóttir Gudna, ſonar Odds Lepps Løg- manns, Þordar ſonar. Egtakv. Einars Teits ſonar ag módir Katrinar var Halla dóttir Si- gurdar Jónsſonar i Einarsneſi, og Ragnhil- dar Asgeirs dóttur, Preſts á Lundi, hvers ádur er minſt. Egtakv. Sr. Jons eldra Ejólfsſonar og módur módir Próſaſtſins ſál. Sr. Biorns Hall- dorsſonar var Arndís Jonsdóttir, Eigilsſo- nar frá Geitaſkardi, Jónsſonar, Eigilsſonar. Kvinna ſidſtnefnds Eigils var Gudrún dóttir

Þorleifs Løgmanns Páls sonar, og Steinunar Eiriks dóttur, Þorsteinssonar, Helgasonar frá Keldum, enn módir Þorleifs Løgmanns var Solveig dóttir Biørns Rika, Þorleifssonar, Biørnssonar Jorsalafara og Olufar Lopts dóttur Rika, Guttormssonar, er fyrr nefndist. Fadir Eigils Straxtalins, edur hins fyrra, var Jón Einarsson, Oddssonar, Syslumanns í Húnavatns syslu, enn kvinna Jóns Eigilssonar og módir Eigils var húsfru Kristin, dóttir Gottskálks Biskups Nicoláſſonar á Hólum. Kvinna Egils hins fyrrtalda edur yngra var Rannveig, dóttir Markúsar Syslumanns, Olafssonar, Ormssonar Løgmanns, enn módir Rannveigar var Ragnheidr dóttir, Sr. Biørns á Melstad, Jónssonar Biskups, Ara sonar. Egtakv. Jons Eigilssonar yngra og módurmódir Sigrídar Jonsdóttur, kvinnu Sr. Halldors, var Sigridr dóttir Jons yngra, Magnussonar Dan og Ingveldar Gudmundsdóttur, enn módir Jons Dan var Ragnheidr dóttir Eggerts Løgmanns Hannes sonar Hyrdstióra, enn fadir Jons Dan var Magnus Jonsson, Syslumadr i Isafiardar syslu.

---

Trykfeil.

P. 6. l. 31. l. hønum
p. 14. l. 17. l. nockrir
p. 15. l. ult. l. Finnr Jonsson med erklæringu sinni.

